# Andlig Ræda

## á Nýársdag,

### flutt 1840.

Sá var sidur, á gamla Testamentisins öldum, þegar Drottinn veitti nockurn stakligann velgjörning fólki sínu, ad því var til minnis haldid, á einhvörn sérligánn hátt. Svo lesum vér (2 Mos. 17), ad þegar Gud veitt hafdi Israels-lid merkiligann sigur yfir Amalek, og þad med þeim undarligu atburdum, ad Israel sigradi, ad eins medan Móyses héldt upp hondum sínum til himins, en óvinurinn þegar hann lét þær nidursíga, svo Aaron og Húr hlutu, hönum til léttirs, ad halda undir þær, og svo vard Amalek gjörsigradur; þá baud Drottinn Móysi, ad rita þennann dásamliga tilburd í bók eina til minnis; en Móyses bygdi Drottni altari, og kalladi þad: Drottins Nisi; þad er: Drottinn er mitt strids-merki, (fyrir hvört eg sigra). Vér meigum ogsvo í dag, gott fólk! minnast eins mikills velgjörnings og líka sem sigurs, er Drottinn oss veittann hefur. Hann er sá, kalla eg: ad vér hösum enn-nú afliskad eitt heilt ár af vorum æfistundum, og sigrad þar med sylkingu eina af 365 dögum, med öllum þeim þjáningum, sem hvörjum þeirra um sig fylgt hafa; og — ó ad vér mættum líka segja: med öllum þeim syndum, sem vér á hvörjum einum þeirra drýgt höfum! Og þad géta öll Guds börn ad

vísu sagt, sem lýktad hafa þad lidna ár med sannri ydrun, og eins byrjad hid nýa; enda géta heldur eingir adrir þetta med sanni sagt, nema þau allein. Því nær þau líta tilbaka á strídsvøll þess umlidna árs, sjá þau valkøst hladinn, ecki ad eins af deyddum døgum og yfirunnum þjáningum, heldur ogsvo af líflátnum þúsundum synda, og í fjøtur settum ótal vondum girndum og tilhneigíngum. Vinnur ecki slíkt til mikilvægs sigurhróss og þacklætis-fullrar heidrunar, vorum hertoga Jesú til handa, fyrir hvørs nád sigur sá einskostar unninn er? Vér holdum í dag endurminníngu þess, þegar hann nýkominn, sem úngbarn, á strídsvøll heims þessa, til ad verda vor hertogi, lèt leggja á sitt blessada hold, med umskurninni, líka sem þad fyrsta teikn þess, ad hann ætladi sídar meir vor vegna, ad gánga í blódugann bardaga; hvad hann og gjørdi trúliga 33 árum sídar, þegar hann géck á hólm vid alla vora andligu óvini, og lagdi þá, svo gott sem gjørsamliga, ad velli. Látum oss því, brædur! byggja honum, einsog Móyses, eitt altari í andanum, og kalla þad "Drottins Nissi", sem þýdi: Drottinn Jesús Christur er mitt strídsmerki (undir hvørju eg sigra, bædi í lífi og dauda)! En til hvørs voru þá ølturu bygd í forna daga? Til þess ad færa á þeim fórnir Gudi!

Ølturu, í bókstafligri meiníngu, þurfum vér nú ecki framar ad byggja, og eingar heldur, í somu meiníngu, fórnir ad færa. Vort sanna altari, vor fórn og vor ypparsti Prestur er á himnum uppi, hann Jesús Christur; þángad er hann inngeinginn med fórn síns blóds, fram fyrir Guds augliti, og sú fórn nægir eilífliga (Ebr. 10; 12).

En þær fórnir, sem vér eigum nú að færa, eru aðeins andligar fórnir, til dæmis: fórn auðmjúks og sunndurkramins anda, sem Guði mikið gèðfeld er; fórn guðligs lifnaðar; fórn kjærleikans verka, og fórn vara vorra, nafni hans og náð til lofs. Allar þessar fórnir eiga þó — ef nockuð gilda skulu — að færast Guði, i trausti þeirrar einustu sannnefndu og algildu fórnar, sem Jesús frambar með sjálfum sér, Guði til sætligs ilms. Nú af því fernslags var fórnakyn gamla Testamentisins, nefniliga: synda-þacklætis-brenni- og friðþægingar-fórnir, þá viljum vér, á þessum hátíðar-degi, skoða hvornig vér á andligann hátt kunnum og hljótum þessar fernslags fórnir Guði að færa, svo honum liki vor Guðs þjónusta, og hann líti til þeirra, einsog hann leit til Abels fórnar forðum, náðarsamliga. Jesús Christur, sem er vor einka fórn og fórnarprestur, hjálpi oss þar til, fyrir sinn heilagann Anda! Amen!

Það er þá, bræður minir! eitt synda-offur, sem vér, fyrst af ollu, hofum orsok i dag fyrir Guð að frambera; og gètum vér það víst ecki, svo honum liki, með oðru móti, enn að vér allir, i sonnum yðrunar anda, flyckjumst að voru óshniliga fórnar altari, Jesú Christó, hvors blóð hreinsar oss af ollum vorum syndum. En til þess að þeckja syndir vorar rètt, svo yðranin sonn verði, er nauðsyniligt, að vér, eins og forsjálir kaupmenn plaga að gjora, litum yfir reikninga vora fyrir umliðið ár, og berum saman inntekt og útgift, svo vér vita fáum, hvornig vorri andligu formègun varið er; og svo vér ecki holdum oss rikari, enn vér reyndar erum. Ef forsjálni þessi þykir nauðsynlig i likamligum efnum, hvorsu þúsund

framar er hún þad þá ecki í þeim andlign! Vér hljótum þó allir, þegar minnst von um varir, ad krefjast reikningskapar fyrir rádsmensku vora, af lifanda Gudi, og erum vér þá óbæriliga illa staddir, ef vér annadhvort ecki gétum skilad pundi voru reglulíga, ellegar annars kostar framlagt qvitteringu fyrir ádurfafnadar skuldir, undirskrifada af sjálfum Gudi, í krapti Jesú borgunarblóds, og innsiglada af heilagum Anda. Eda mun nockur sá, af øllum hér nálægum, edur ødrum, sem þori ad segja fyrir Guds augliti, ad hann hafi svo lifad, á nærstlidnu ári, í øllum greinum, sem hønum borid hafi? Sá mun vissuliga einginn vera! Því enda þótt hann hefdi svo lifad, ad einginn madur hefdi, ecki einasta ecki gétad neitt út á hann sett med réttu, heldur ad jafnvel allir yrdu, í einu hljódi ad játa, ad hann hefdi skickad sér med rádvendni, kostgjæfni og trúskap í øllu, þá dugir sá vitnisburdur alls ecki fyrir Gudi, því hann dæmir eptir hjartanu, en ecki svo eptir ytri verkunum. Þó einn hefdi aldrei talad neitt skadligt ord af munni sínum, en þó sáfeingilig og óþørf íbland; já þó hann hefdi aldrei talad neitt óþarft ord, en þó haft óþarfa þánka stundum, er hann eptir Guds ordi fordæmíngarsekur; þó madur hefdi aldrei framid neitt illt verk útvortis, en þó haft girnd til þess í hjartanu, stendur hann undir Guds banni eingu ad sídur; já þó einn hefdi hvørki framid neitt vondt verk, né haft nockra girnd til þess; en þó forsómad þeckjanliga ad framkvæma þad góda, sem hann átt og gétad hefdi, annadhvort í hugrenníngum, ordum edur verkum, lýsir Guds heilaga løgmál formælingu yfir hønum. Þessvegna hljóta allir — já allir — ad eingum undanteknum, eins hinn

rádvandasti, sem hinn órádvandasti, ydrun ad gjora. Gjori hann þad ekki, svo er hann, svo verdur hann ólukkuligur. En hugsi nú einhvor, ad ei sé þorf á svo stórri ydrun fyrir smásyndir, sem hinar stærri, hún þursi ekki svo nærri manni ad gánga, einsog hann hefdi stórglæpi framid, þá vogast eg ad segja, ad ef hann nockra ydrunarmind gjorir med þessum þánka, er hætt vid hann spotti Gud med ydrun sinni, og hún verdi másské hans stærsta synd af ollum syndum. Eingin einasta synd, — og ecki hin minsta hugarhræring til syndar, — er svo litil, ad hún ecki vinni til eylífrar fordæmingar; þessvegna kann einginn svo heita ydrun ad gjora, ad hún í rauninni haldi jafnvægi vid syndina, og fyrir þá skuld gétur einginn med ydraninni einni áunnid fyrirgéfníngu synda sinna, ef Jesú fridþæging tæki ecki af misvigtina. En sá sem litid gjorir úr syndum sínum, og finnur litid til þeirra, honum er ómoguligt ad taka ad sér Jesú fridþægingu réttiliga. Og af því kemur þad, sem sagt er: ad harmþrúnginn og af syndanna ángri sundurmarinn andi, er Gudi sannarliga mikid þægiligt offur; því slíku einu offri gétur Jesú fórnarblóds kraptur sameinad sig, en odru ecki. Verid því, christnir menn! vandir ad ydrun ydar, í Guds nafni; og látid ydur ecki nægja ad komu á hana mindinni einni, því Gud lætur ecki ad sér hæda, en sá hædir hann mest, sem frambýdur honum ógilda ydrun, en vill þó ad Gud láti sér hana lynda. Hugsi nockur svoleidis: Christs forþénusta skal gjora þad alltsamann gott; eg gét ecki med ydrun minni, edur odrum gódverkum betalad syndaskuld mína Gudi, hvort heldur er. Eg svara: svo sem þessi þánki er sannur í sjálfum sér, þegar

hann kémur fram af sannydrauda hjarta, svo skadligur gétur hann ordid, þegar ødruvísi ástendur. Vitid þér ecki ad Jesú fridþæging verdur ad medtakast á réttann hátt af þeirri sálu, sem hennar skal njótandi verda; en sálin verdur þá ad hafa þad hjartalag, sem gétur móti henni tekid; annars nýtur hún hennar aldrei ad eylífu. Nú er þad einasta sannydrandi hjartalag, — þvilikt nefniliga, er hrædist syndina mikiliga, hatar hana alvarliga og fordast hana dyggiliga, — sem móti þessu lækníngsmedali gégn syndinni tekid gétur, en eckért annad; bresti þad, fær manneskjan Jesú fullnægjugjordar aldrei hluttakandi ordid, þó hún ímyndi sér þad, edur uppá þad stóli. Eg vil einfalda samlíkingu hér uppá taka: Setjum ad einn madur eigi ad leysa høfud sitt med nockrum þúsundum ríkisdala, sem valla á 1 skildíng í eigu sinni. Konúngsins sonur, hrærdur af innbligri medaumkun yfir þessum vesæla óbótamanni, lofar ad borga alla høfudlausnina fyrir hann, en áskilur ad hann skuli þá til sín koma hid allra fyrsta, med hentuga byrdslu, (sem hann gétur sjálfur tilhaft, ef hann vill), til ad leggja gjaldid í, og færa þad sídan sínum konúngliga fødur. Sá seki tekur þessu ad sønnu vel, og þykir vænt um; en af því byrdslan, sem hann á ad láta gjaldid í, er bædi þúng ad flytja, þar til óhrein og brostin, og þarf því mikillrar adgjørdar — hvorja hann þó gétur sjálfur, ad nockru leiti, af hendi leyst, — nennir hann ecki ad hafa fyrirhøfn þá og kostnad, sem til þessa heimtast, og þeinkir ad konúngsins syni meigi vera hid sama, í hvad hann þad lofada gjald lætur, og ad hann ecki muni taka nád sína aptur fyrir þad, fyrst hann sé svo miskunsamur. En sem hann kémur og vill gjaldid

til hans sækja, en hefur eki þá áskildu byrdslu til ad leggja þad í, sær hann þad makliga svar: "Fyrst þú af hyrduleysi forsómadir ad uppfylla þessa léttu skilmála, sem eg vid þig uppsetti, sýnir ad þú ert óverdugur minnar og míns födurs nádar; svo ad gefa þér líf, er ei til annars, enn gefa þér tækifæri til nýrrar óráðvendni, því þú hefur eingann sannann vilja edur vidleitni til ad betra þig. Þarfyrir afsegi eg þér hreint alla nád, og þú skalt endiliga missa lífid!"

Svona, brædur mínir! fer nú vissuliga fyrir öllum þeim á sídan, er sanna yfirbót eki gjöra; edur hafa eki sannydrandi hjarta til ad taka med því á móti Jesú Guds Sonar forþénustu, sér til syndalausnar, svo þad rætist þá á þeim, sem skáldid segir: "ónýt er ydran tæp, ad því skalt hyggja, ef þú i gjördum glæp, girnist ad liggja". Af þessu sjáum vér, ad synda-offrid (mætti þad svo nefnast) frá vorri sídu, sem er sundurknosadur andi, einsog Spámadurinn segir — ad samfarandi þeirri betran lifnadarins, sem vér getum í té látid — hlýtur ad vera réttskickad, ef þad duga skal, annars kunnum vér eki i sannri trú, ad hrópa oss uppá þá blessudu blódfórn Jesú Christs, því hún getur þá eki komid oss til nota. Nú kannské einhvor vildi segja: eg lifi þó svo vel sem eg get; eg ydrast svo opt og heitt, sem eg get, synda minna. Þá verdur nærri því eins mikil lýgi i því svari, sem hinna, er álita sig nógu stóra ydrun gjöra — þó hún eki svo heit sé — fyrir sínar smásyndir; því hvorugra hjarta er réttskickad fyrir Gudi. Hefur þú þá, — sem ert svo djarfar ad segja: ad þú getir eki betur lifad enn þú gjörir — hefur þú, spyr eg, notad þér öll þau tækifæri, allar

þær stundir, öll þau meböl, sem þér frambodist hafa til ad fordast illt, en gjöra gott? Hefur þú reyndt til ad bidja Gud, lesa Guds ord þér til uppvakningar, svo opt sem þú hefur getad? Hefur þú leitast vid ad halda þig til þeirra stada, þeirra persóna, þeirra athafna, af hvörjum hjarta þitt gjæti mesta uppbyggingu haft? Hefur ecki margur tíminn verid af þér brúkadur til hégómans þjónustu, sem þú brúkad gatst til betri athafna? Mörgu — jafnvel af líkamligum hlutum — verid af þér sóad til þess, sem óþarft var, enda skadligt, ef rétt er adgjætt? Hvad opt hefur þú þægt, ecki einasta þínum eigin girndum, heldur og holdliga sinnudum vinum í því, sem þú vissir þó, ad ecki átti ad vera? Hvörsu opt leita ecki margir sér, sumir skémtunar, sumir ábata, sumir æru eda fremdar, med því sem syndsamligt er? Og — þessir allir þykjast þó lifa svo vel sem þeir géta! O, hvörsu forblindadar manneskjur meiga slíkt vera! þeirra eiginn munnur fordæmir þá!

En nú gjöri eg rád fyrir þeim þridju, sem hvörki, ad ordi kvednu, látast gjöra svo lítid úr syndum sínum, og ei heldur heyrast svo mikid afbata lifnad sinn. Þeir segja: vér játum þad, ad vér syndarar erum! vér höfum til straffs unnid af Gudi, ef hann vill í réttlætis dóm vid oss gánga; þad góda, sem vér viljum, þad gjörum vér ecki, en þad vonda, sem vér ecki viljum, þad gjörum vér! og s. frv. Nú svo miklu álitligri, sem þessara játning heyrist ad vera enn hinna, getur hún þó verid einber hræsni; ecki þó í því tilliti fyrir víst, ad þeir meini allt odruvísi, enn þeir tala; heldur í því, ad þeir gjöra eckért vid því, sem þeir játa þeir eigi þó og þurfi vid ad gjöra; og

hvørt gagn er þá að þeirra þeckingu og viðurkénn-íngu, fyrst hún eingann ávørt færir? Þeir eru eins og sonurinn, sem tók því vel að fara út á akurinn, þegar faðirinn skipaði honum það, en fór þó hvörgi, að øllu búnu (Matth. 21, 30). Þeir eru sem hinn lati, er deyr yfir ósk sinni (Orðskv. 21, 25). Þeir óska sér eylífs lífs, en nenna þó ecki að erfiða fyrir því; þeir segja, að syndin sé skaðlig, en æsa hana þó vísvitandi; þeir játa að helvíti sé hræðiligt, en hlaupa þó þángað fullum setum; þeir hrósa Guðs orði, en lifa þó ecki sem það býður. Stundum sýn-ist að sønnu sem þeir ángrist af syndum sínum, nefni-liga þegar straffið sést nálægt vera, ellegar ef ein-hvør útvortis mótlæting kremur þá; en aptur aðra stundina leika þeir sér að syndinni, sem øðru tafli, einsog einginn háski væri á ferðum. Eingir af þess-um hér tøldu géta, meðan þeir svoleiðis eru, offrað Guði þeirri fórn, sem honum gédjast; það er þeim ómøguligt, því í hjarta þeirra er hvørki Guðs alt-ari, né Guðs eldur, og þessvegna er þar ecki sá staður, hvar honum kunni fórnir að færast.

Gjætum nú að oss í Guðs nafni, bræður og systur! gaungum ecki með þessu skapi inní það nýa ár. Verum oss að færa Guði einlæga syndafórn í anda; það er sundurknosaðann anda og harmþrúngið hjarta út af syndum vorum; já, það hjarta, sem sann-arliga óttast hans orð; svo að Jesú algilda og sann-nefnda synda-fórn, í vorn stað, meigi tileinkast oss; og að vér fyrir hennar krapt — en ecki vorrar eigin fórnar — fáum hjá Guði fyrirgéfníngu allra vorra synda, hvørjar Jesús, með umskurn sinni, svo gott sem skuldbatt sig til vor vegna uppá sig að taka; og

þá gétum vér fyrst fært honum til heidurs réttiliga, þá adra fórn edur offur, nefniliga:

Þakklætis-fórn fyrir hans velgjörnínga, sem eg hét á ad minnast. Svo skyldugir sem vér erum til ad færa Gudi fórn þessa, svo ómöguligt er oss þó ad gjöra þad, ef syndafórnin er ecki ádur svo rétt færd, sem skyldi. Hvörnig á sá ad géta þackad ödrum hans velgjördir af alvöru, sem í eingu, ad segja, leitast vid ad gjöra hans vilja, og ei heldur ad sætta sig vid hann, þó bædi viti hann, ad hann þurfi þess, og líka ad hinn sé fús ad taka sáttum, sé þeirra réttiliga vid hann á leit farid? En öllum sem ydranin er ótöm, þeim er eins ótamt þacklætid. Þessvegna er þad svo fágjætt, ad Gud fái verdugt þacklæti fyrir velgjördir sínar, af þvi ydranina vantar; en mögl og óþolinmædi alltid nóg, þegar ecki geingur allt ad óskum. En — er Gud skyldugur ad gjöra nockud eptir ósk vorri, þegar vér gjörum eckert eptir ósk hans? Ad sönnu heyrist þad i bland, ad menn þacka Gudi fyrir líkamligar gáfur, t. d. fyrir gott vedur, góda heilsu, gott árferdi, — og í sannleika er allt þetta mikils þacklætis verdugt, — þó held eg Gudi þyki lítid koma til þessa vors þacklætis, fyrir þad jardneska og líkamliga, þegar vér þöckum honum lítid edur eckért fyrir hid andliga og himneska. Vér breytum þá eins og börn þau, sem þacka födur sínum fyrir sætindi og gull ad leika sér ad, en ecki fyrir holla fædu edur læknisdóm. Nei! látum oss þacka Gudi fyrst og fremst fyrir þær andligu, og sídan fyrir þær líkamligu gáfur hans. Þvi einsog vér eigum fyrst og fremst ad leita Guds rikis og hans réttlætis af öllu, svo eigum vér líka fyrst og fremst af öllu fyrir þad ad þacka; og þá,

þegar það er búið, gétum vér fyrst, með réttu skapi, þackað Guði fyrir það líkamliga. Sá sem þackar Guði af einslags alvoru fyrir þau líkamligu gjæði, en daufliga fyrir þau andligu, hann sýnir að hann elskar líkamann meir enn sálina, það stundliga meir enn það eylífa. En það er líka hvorutveggja, að sá sem að sönnu heyrist stundum þacka Guði fyrir líkamligar velgjørðir, en sjaldan eður aldrei þackar hönum af rót fyrir þær andligu, hann er einginn sannur Guðs dýrkari í verunni; enda gétur vart sá nockurntíma þackað Guði, hönum þóknanliga, fyrir líkamligar gáfur, sem gleymir þacklætinu fyrir þær andligu. Þú þackar Guði fyrir góða veðráttu; þackaðu hönum miklu framar og fyrst fyrir það, að hann lofar þér að lifa þar í christni sinni, sem þú í friði og náðum fær að taka á móti himinsins andligu blessunum, og heilags anda verkunum í sálu þína, til að géta lifað guðliga og dáið sáluhjálpliga. Þú þackar Guði fyrir góða heilsu líkamans, þín og þinna; þú gjørir það rétt að vísu; en þackaðu hönum þó þúsund framar fyrir það, að hann gefur þér og þeim kroptugasta meðal í sínu orði og Sakramentunum, til að lækna sálir þína og þeirra af sýki syndanna, og síðan til að halda við heilsu þeirra framveigis. Þú þackar Guði fyrir útvortis frið fyrir jarðneskum óvinum; vel er það! en þackaðu hönum þó allra inniligast fyrir það, að hann hefur unnt þér að hafa frið við sig, fyrir Jesúm Christ; og þaraðauki vill géfa þér bæði krapta, kunnáttu og vopn, til að yfirvinna með þína andligu óvini! Þú þackar Guði fyrir gott árferði, góða kauphöndlun og þvíumlíkt; það er að vísu maklígt; en gleymdu samt ecki að þacka hönum fyrir það,

ad þú býr í því landi, hvar yfirgnæfanligt er af lífsins braudi; hvar himininn rétt sem rignir yfir þig Manna dagliga, og hvar þú fær ad uppausa vatn úr brunni hjálpræðisins rikugliga; já, hvar sú dýrmæta perlan, sem einn vann til ad selja allt hvad hann átti, til ad géta eignast hana, hvar hún, segi eg, frambýdst þér, rétt sem géfins af Gudi þinum. Enn framar skulum vér þess gjæta, brædur minir! ad Gudi þykir alls ekkért koma til vors þakklætis, hvorki fyrir sínar andlign né líkamligu gáfur, ef vér þá ekki notum oss þær dyggiliga, þegar búid er. Þó einn ágjarn þakki Gudi fyrir hans líkamligu blessun, sem hann festir hjarta sitt vid, og lætur allt sitt vit í, svo sem annar Mammóns dýrkari, gétum vér nærri, ad Gudi muni ekki þykja mikid til hans þakklætis koma. Þegar einn vellystingur þakkar hönum fyrir kræsinganu mat og kostuligann áfeingann dryck, á hvörjum hann etur sinn gamla Adam, svo hann verdur lífadur og lauslátur, og rekur sídan Guds anda út af hjarta hans, hvad er i slíkt þakklæti varid? Þegar einn ærughrugur þakkar Gudi fyrir upphesd sína, hvörja hann brúkar þó sídan til ad undirþryckja adra, og hroka sér upp yfir þeim, einsog annar páfugl, hans þakklæti forsmáir Gud sannarliga. Enn framar, þó einn þakki Gudi fyrir hans ord og Sakrament med lausum ordum, en hlýdir þó hvorki Guds vilja, né brúkar þessi nádarmedöl réttiliga, hönum verdur þakklæti sitt ad synd. Já, hvad meira er, þó einn þakki Gudi fyrir sjálfann Jesúm Christ, og þyki, á sinn hátt, vænt um, ad hann endurleysti sig, en brúkar þó endurlaunsn hans til ad auka sitt andvaraleysi, og þjónar syndinni vísvitandi i oftrausti hans fridþæg-

íngar; hann gjörir Jesúm að syndaþénara, og rétt sem spottar Guð með sínu þakklæti. Svo sjáum vér þá, bræður! að allt ríður á, með hvörju hjartalagi vér þóknum Guði, ef þakklæti vort á að verða hönum þóknanligt. Þessvegna verðum vér, ef vel skal fara, að láta voru þakklætis-offri fylgja

Eitt Brenni-offur, hvört upp á að tendrast og hreint fortærast af þeim heilaga eldi, sem kveiktur sé og brenni á voru hjartans altari. Þessi eldur verður að vera af himnum fallinn, ef hann duga skal til síns augnamiðs. Hann verður að vera samaslags eldur, sem sá heilagi andi tendrar sjálfur í hjörtum allra sanntrúaðra; nefnilliga: eldur elskunnar til Guðs fyrir Jesúm Christ; þess heitara sem þessi eldur brennur, þess vissari er, að hann uppbrennir það sem vér eigum Guði að fórna. En hvað er það? viljið þér máské spyrja: það er fyrst vor eiginn vilji, vorar syndugu girndir og tilhneigingar; þarnæst vort eigið réttlæti, eiginn vísdómur og eiginn æra; í þriðja lagi, öll elska til heimsins og hans munaðar, og allt hvað vorri syndum-spilltri náttúru þykir vænst um, og andi Guðs mun best minna oss á, þegar hann fær að uppkveikja þennann eld í hjarta voru. Þetta má verða yfrið stórt bál, því nóg er eldsneytið; enda er það Guði þess þægiligra, því hærra það logar; og í þessum loga munum vér þá, með trúarinnar augum, (viðlíkt og Manóah forðum. Dóm. 13, 20) sjá Guðs Eingil, þann óskapaða, Jesúm Christ, hvörs manndómur að brann í Guðs réttlætis báli, vor vegna, um hríð á Golgatha; og þarmeð verðum vér minntir á það síðarsta og sannkallaða

Friðþægíngar offur, er vér fyri Guð, í dag og ætíð frambera skulum. Því það sama er ekkert annað, enn Jesús Christur sjálfur; hann er það Guðslamb, sem burtuber allrar veraldarinnar syndir; hann er sú fórn, sem einsömul nægir að eylífu til friðþægíngar fyrir öll Adams börn; ó að þau öll þecktu hana, og þau sem hana þeckja, vildu sér hana réttiliga í nyt færa; fyrir hána einskostar verða allar aðrar fórnir vorar Guði þacknæmar; en án þess hún meðfylgi, hefur hann á þeim öllum andstygð. Öll vor ydrunartár, sem vér, svo sem í líkíngu einnar syndafórnar, úthellum fyrir Guði, eru til einkis, ef Jesú fórnarblóð ecki svo gott sem sameingast þeim; allar vorar þacklætis fórnir, sem vér látumst fyrir Guði frambera, verða fúlar og viðurstyggiligar fyrir honum, ef þær ecki eru yfirstocktar með Jesú blóðs ádreifíngu; sá öll vor sjálfsafneitan og girnda niðurdempan, er vér, svo sem aðra andlíga brennifórn, eigum Guði að færa, verður að eíngu metin, ef sjálft fórnar altarið, það er hjarta vort, er ecki áður rjóðrað með Jesú forlíkunar blóði. O sjáum! svo stóran krapt og gildi hefur nú þetta eina Jesú friðþægíngar-offur í Guðs augliti. Einglarnir sjálfir hafa einga aðra eins dýrmæta fórn að færa Guði, sem vér, þegar vér í trúnni framberum Jesúm Christ alblóðugann og benjum þakinn fyrir Guði, sem eitt offur fyrir syndir vorar. O, að vér kynnum allir þessa heilogu offurþjónustu að fremja svo Guði líkaði, nú í dag, þá mundi þessi Nýársdagur verða oss besti blessunardagur í lífi voru! þá mundi himininn rétt sem oppnast yfir oss, og blessunar straumar, frá

Guds og Lambsins stóli, ríkugliga yfir oss flóa. Æ, ad hjörtu vor yrdu upp frá þessu likt sem helgud og vígd olturu Gudi til dýrdar, á hvorjum ádursagt serfaldt offur mætti dagliga fyrir hann framborid verda, hvorra yfirskrift ad væri, sem þess altaris er Móyses bygdi, þessi nefniliga: Drottiun Jesús Christur er mitt stridsmerki! Undir merki þessu munndum vér þá sigra alla vora óvini; já yrdum alls óyfirvinnanligir. Látum oss þá gánga undir þetta merki í dag, og sverja hertoga vorum Jesú þann hollustu eid, ad vér aldrei framar skulum undan því strjúka! Þetta stridsmerki er audþeckt frá ollum odrum merkjum; þad ber á sér mind eins lambs, hvort slátrad er og lodrar allt í sinu eigin blódi; og þar undir standa skrifud þessi ord: "Jesú Christs Guds Sonar blód hreinsar oss af ollum vorum syndum!" O, þér stridsfólk Jesú! látum oss undir þessu merki lifa, lída og deya! Lifum í trúnni á Guds Son; lídum í þolinmædinni eptir hans dæmi; og deyum svo í voninni til Guds miskunar, fyrir hans blódugu fórnfæringu!

Byrjum nú árid med þessum ásetníngi, svo þurfum vér eingu ad kvída, hvad sem uppá kémur! Komi mótlæti, Jesús mun mýkja þad; komi freisting, Jesús mun géfa nád til ad sigra hana; komi daudinn sjálfur, — nú vel! veri hann velkominn! Ef vér stondum þá undir Jesú stridsmerki, verdur hann oss eingiun skelfíngar-konúngur, heldur fridarbodi til eylífs lífs; komi hann því sæll, þegar hann vill!

Upp, upp þarfyrir allir, menn og kvinnur, ýngri og eldri! og fylgid hertoga ydar eptir, útá stridsvoll

þessa nýa árs, og yfirgéfid hann aldrei framar meir vísvitandi! Þá þori eg ad lofa ydur í hans nafni sigri yfir øllum ydar sálaróvinum hér í heimi, og sídan dýrdligri sigurkórónu á himnum uppi.

Herra Jesú! láttú mig ecki þurfa ad lofa þessu til forgéfins! Bænheyr þad fyrir sakir, svovel þess fyrsta sárs, sem þú í þinni heilogu umskurn fyrir oss á þig tókst, sem þess sídarsta, er þú dáinn á krossinum féckst á þína heilogu sídu; já, fyrir sakir allra þinna sára og tára, blódsúthellingar og bitra dauda. Þér med Fødurnum og heilogum Anda, sé frá einni eylífd til annarar, af øllum túngum eingla og manna, dýrd og lofgjørd sögd og súngin óaflátanliga, í hæstum hædum! Amen!

☞ Evangelisk Smárit frá byrjun Nr. 58, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim sem þeir færa þau, ef vilja.

Kaupmannahøfn 1846. Prentad hjá S. L. Møller.